# Frásaga

af

# Jónathan Braun,

einum engelskum bátsmanni.

Eptirfylgjandi frásaga er eptir handskript einu af Dr. Calamýs, sem hefur þann titil: „frásagnir um ýms tilfelli í minu lifi, og i minni tíd.“ Hún hljódar svoleidis:

Eg hafdi þann vanda, seigir skrifarinn, eptir þad eg fór ad þjóna sofnudinum i Vestminster, ad eg, nærsta sunnudag, ádur enn eg útdeila ætladi þá heilögu kvöldmáltíd, gjordi fólkinu áform mitt kunnugt, og ad þeir, sem giratust, mættu í því tilliti eiga samtal vid mig, og koma til min, heim í hús mitt, á fimtudags kvöldid nærsta fyrir. Þegar eg nockra stund hafdi gjordt þetta, þá vard eg einusinni, (eg man ecki hvort ár), medal þess samankomna mannfjolda var vid einn aldradan mann, en litinn ad verti, hvor, undir eins og eg géck inn í húsid, þar sem fólkid var, med hárri roddu hrópadi til min og sagdi: „hér er kominn Jónathan Braun, sem hvorki kann ad lesa né skrifa, en, eptir ydar tilbodi nærstlidinn sunudag, kémur þó hér, til ad sjá ydur og heyra þad, sem þér hafid honum ad seigja.“ Þá eg heyrdi þetta, leit eg i kringum mig, og þeckti ecki mann þennan betur enn adra, en sá ad hann var sú eldsta persóna af þeim sem komnir

voru, og eg sagdi: ad eg hefdi ecki qvadt hann til ad koma, framar enn adra; en þar sem hann væri þó kominn, væri mér þad gledi, ef eg giæti ordid hønum til uppbyggíngar. Hann svaradi: hvørnig kunnid þér, gódi herra! ad seigja: ad þér hafid ecki kallad mig híngad? því þá þér tøludud ordinn, litud þér svo beint í andlit mér, ad mér ad minsta kosti fanst eins vera, sem þér segdud til mín: Jónathan Braun, kondu! Eg svaradi hønum þá: ad eg hefdi, allt til þessarar stundar, ecki vitad, ad einn Jónathan Braun væri til, og þessvegna hefdi eg ecki framar horft á hann, edur kallad hann til mín, en hvørn annan; en hvad sem um þad væri, þá skyldi þad vera mér stór gledi, ef eg giæti nú audsýndt hønum nockra hjálp, í því allra mikilvægasta efni, og eg vildi þacka Gudi fyrir, ad hann géfur mér nú þar til tækifæri. Hann svaradi þá, ad hann vonadi þess af mér, ad eg bædi giæti og mundi audsýna sér þá stærstu velgjørd sem til væri hér í heimi, med ad vera sér til adstadar í því, ad vísa sér hann rétta veg til himins, eptir hvørju hann qvad sig alvarliga lánga. Eg er, sagdi hann, albecktur, og hér eru líka nockrir nálægir, sem þeckja mig, og géta sagt ydur, ad Jónathan Braun sé rádvandur, sem nockur madur hér í kyrkju-sókninni; en eg finn, ad þetta nægir mér ecki; mig brestur enn nú eitthvad, og eg bid ydur, ad þér, í því tilliti vísid mér á rétta leid; og til þess ad þér því betur vitid, hvad þér eptir mínum stakligu lífs til fellum, — hafid ad rádleggja mér, svo hlýt eg þá ad seigja ydur þvilíka sögu af sjálfum mér, hvørri líka þér munud, alla ydar æfi, aldrei heyrdt hafa. En, — sagdi hann enn framar, —

þann skilmála verd eg ad setja upp vid ydur, ad þér ecki sipid fyrir mér, medan eg er ad seigja ydur hana, heldur lofid mér ad halda henni áfram, á mína vísu, allt til enda; því ef þér grípid fram í talid, þá gét eg ecki haldid leingur áfram, heldur verd ad taka upphafid á henni aptur. Nú gat eg eckert annad merkt af tali þessa fátæka manns, enn hrein ærligheit og einfeldni, samt fulla alvöru í hans hjarta. Eg tók hann þessvegna afsídis í eitt herbergi, og sagdi honum: ad hann mætti nú seigja mér alla sögu sína, og ad eg skyldi alls eckert sipa fyrir honum á medan. En ad því búnu mundi eg spyrja hann ad fáeinum spurníngum, og leida hann sídan á svo réttan veg, sem eg gjæti; med hvört svar mitt hann ánægdur var. Hann sagdi mér þá, ad hann hvörki þeckt hefdi fodur sinn né módur, heldur hefdi hann verid mikid úngur falinn á hendur einni fósturmódur, sem hann sagdi verid hefdi mikid gód vid sig. Hún hefdi sídan látid sig, þegar hann var hérum 6 til 7 ára gamall, fara til eins skipherra, og svoleidis hafi hann komist á einn bát, sem geingur á milli Lundúnar og Warne. Svo leingi hann hafi barn verid, qvadst hann hafa brúkadur verid til þesshättur léttings verka, sem hann hafi verid fær um ad framkvæma; en eptir þad hann vard stærri, og hann sýndi sig kostgjæfinn og trúan í öllu því sem honum var á hendur falid, þá qvadst hann aldrei hafa neinn skort lidid, á því sem hann þurft hafi til ad eta, drecka og klædast af, og ad hann hafi því verid hjá sama skipherra, allt til þess hann haft hafi 5 um tvítugt. Hann sagdi mér, ad hann í frá sínum barndómi, hafi audsýndt serhverjum þad, sem hann var

hönum skyldugur, og ad hann hefdi eingum manni óréit gjørdt. Hann qvadst hata alla lygi, og tala alltíd sannleika eptir bestu vitund; sagdist finna alltíd þad eitthvad innvortis med sér, sem minnti sig á ad forðast þá vondu hluti, sem hann dagliga sæi fyrir sér og heyrdi. Hann sagdi ad yfirmenn sínir hefdu elskad sig og unnt sér mikiliga, jafnvel þó ad sampjónar sínir hefdu sér ei gódir verid, af því hann hefdi ecki viljad tala og breyta, eins og þeir. En midt í øllu þessu qvadst hann þó ecki hafa innvortis med sjálfum sér ánægdur verid, og sér hafi fundist sig vanta eitthvad, jafnvel þó hann, vegna fávitsku þeirrar, í hvørri hann uppalinn var, ecki gjæti sjálfur sagt, hvad þad heldst væri. Hann sagdi mér, ad hann, allan þennan tíma æfi sinnar, hefdi sléit einga ímindan haft um Guds þjónustu (á helgum døgum), og þessvegna hefdi hann aldrei vid hana verid, eda heyrdt nockurt ord um hana talad. Eins qvadst hann aldrei heyrdt hafa, hvør edur hvad Christur væri, og aldrei Guds nafn ødruvísi nefnt enn vid munneida, og midt í ødru blóti. Þessvegna hefdi hann ei vitad neinn mismun ad gjøra á einum deigi framar ødrum; edur á milli þess sem gott og illt væri, ad undanteknu hvad þær ádursøgdu innvortis hræringar hefdu bendt sér til, sem hann gjæti þó ecki útlistad; og midt í því hann taladi þetta, dundu tár ófaneptir kinnum hans.

Loksins sagdist hann hafa ordid svo óróligur ad vera á þessu skipi, ad hann ecki hefdi gétud feingid af sér, ad vera leingur hjá þessum skipherra, heldur hefdi hann ásett sér, ad fara eitthvad í burtu frá hønum, úti vída verøldina.

Nú kom hann fyrst til sinnar gömlu fósturmóđur, sem enn þá lifdi, og sem veitti hönum nú ávitur fyrir þad hann yfirgéfid hefdi herra sinn, þar hann ætti þó eingan þann vin ad, sem svo vel sæi fyrir hönum, sem hann. Þessvegna vildi hún telja hanná, ad fara aptur til hans; en hann sagdi henni þar á móti, ad hann gjæti ecki leingur feingid af sér, því lifi ad lifa; þad mætti því heldur verda um sig, hvad sem verda vildi. Þar fyrir spurdi hann hana ráda, hvad hann tilgjöra skyldi, til ad géta unnid fyrir uppeldi sínu, þar þeir fáu peningar, sem hann haft hefdi, væru nærri uppgeingnir. Hún gaf hönum þá loksins þad ráđ, ad hann skyldi fara til Lundúnar, og koma sér þar inn hjá födurbródur sínum, sem væri pípusmidur; hvad hann og gjördi.

Þessi frændi hans tók med vinsemd á móti hönum, og lét hann, svo mikid sem möguligt var, hjálpa sér til, vid handverk sitt. Einusinni einn sunnudags morgun, þegar hann géck um eitt stræti borgarinnar og litadist um kring, þá sá hann mikinn fjölda fólks fara inni eitt stórt hús; hann géck þá í humótt eptir því, í þeirri meiningu, ad hann feingi þar nockud nýtt ad sjá. Þegar hann nú inukom, sagdist hann hafa sjed þar mikinn fjölda fólks sitjandi, og einn svartklæddan mann, sem mænt hefdi uppyfir alla, og þetta sagdi hann ad hefdi geingid aldeilis yfir sig. Nú heyrdi hann ad þessi svartklæddi madur var ad tala vid þad samankomna fólk, og sagdi því: ad þad hefdi ecki ad eins líkami (fyrir ad sjá), heldur og sálir, og ad eptir þetta líf, væri eins annars lífs ad vænta; og ad allir þeir sem ecki hefdu, svo leingi líf

þetta varadi, lagt ástundun á ad þjóna Gudi og þókn-ast hønum, mundu í hinu lífinu ófarsælir verda, og þad eylífliga. Hann sagdi hann hefdi og sagt fólki frá Jesú Christi nockrum — um hvørn hann qvadst ádur aldrei neitt skilmerkiligt heyrdt hafa — og ad þessi Jesús hefdi verid svo fullur af elsku til mann-anna, ad hann hefdi af himnum híngad ofan á jørd-ina komid, til ad vísa mønnum þann rètta veg frá jørdunni til himins, og ad þeir, einúngis fyrir hans adstod, gjætu Guds nád og miskun ødlast, og í hinni sídari verøldu lucku ligir ordid. Nú qvadst sá fátæki Jónathan hafa ordid svo mjøg hrærdur af þessum hlutum, ad hann strags í sømu sporum hefdi feingid þann fasta ásetníng, ad hann, eptir þennan tíma, vildi ecki líf sitt framdraga á neinum ødrum stad, enn þar sem hann feingi heyrdt talad um þennan Jesúm Christ, svo hann gjæti lærdt ad þeckja hann, og verda svo fyrir hans adstod lucku ligur, med því ad ødlast frelsi fyrir sálu sína. Þegar hann nú kom úr kyrkjunni heim til sín, sagdist hann hafa, med miklum føgnudi, sagt fødurbródur sínum frá, hvad hann um Jesúm í kyrk-junni heyrdt hefdi, og hvørt áform hann hefdi nú þess-vegna fyrir sig tekid. Nú vard hann var vid, ad fødurbródir sinn vissi þetta alltsaman ádur fyrir laungu, og ad hønum var þad þessvegna eckért nýtt. Lá høn-um þá vid ad átelja fødurbródur sinn fyrir þad, ad hann skyldi aldrei hafa sagt sèr neitt um Jesúm Christ, hvar til hinn svaradi, ad hann hefdi hugsad, ad hann vissi þad allt eins vel sem hann, enda kynni hann nú alla sunnudaga meira þar um ad heyra; yfir hvørju ad Jónathan vard inniliga gladur. Eptir nockurn tíma

lídinn fann skipherrann aptur Jónathan, sem ordid hafdi mikid hugsjúkur út af missir hans, og hafdi því leitad hans med mikillri kostgjæfni. Nú sem hann fann hann hjá frænda sínum pípu-smidnum, spurdi hann: hvad honum hefdi geingid til ad fara í burt frá sér? Jónathan svaradi honum: ad hann hefdi haft nóga orsök þar til. En kjæri meistari! — svo spurdi hann skipherrann — gétid þér géfid mér nockra skuld fyrir þad, ad eg hafi nockurn tíma svikid ydur? O ney, svaradi meistarinn, þú hefur mig aldrei svikid, heldur hefur þú verid sá betsti og trúasti af öllum þeim þjónum, sem eg haldid hefi. Þad gledur mig ad heyra, sagdi Jónathan. Eg er og víss um, ad þegar eg frá ydur fór, tók eg eckért med mér af ydar, heldur ad eins þad, sem eg átti sjálfur. Þad er satt, Jónathan minn, sagdi meistarinn; en þú verdur nú ad fara med mér, og vera aptur hjá mér; eg gét ecki án þín verid. Jónathan svaradi: þad gét eg ecki af mér feingid. Hvad kémur til þess? Spurdi meistarinn; ef þú vilt hafa meira kaup, skal eg gjarnan géfa þér þad, og þad svo mikid, ad þú skalt verda ánægdur. Ney meistari, svaradi Jónathan; kaupid skal ecki tæla mig til þess. Þá sagdi meistarinn: hvad heldurdú ad báturinn minn kosti? Þad gét eg ecki sagt, þad veit eg ecki, svaradi Jónathan; hann mun í þad minsta kosta hérum 100 ríkisdali. Þá sagdi meistarinn: nú vel! ef þú vilt fara med mér og vera hjá mér, þá skaltu eiga fiórda partinn í honum. Ney meistari, svaradi Jónathan; eckért tilbod skal freista min til ad verda framar vinnumadur hjá ydur. Nú vildi skipherrann fá ad vita, hvor orsök til þessa væri? Þá

sagdi Jónathan: Þó þad satt sé, ad, á medan hann hefdi hjá honum verid til þjónustu, hefdi sig eckert brostid til líkamans naudsynja, þá hafi samt sála sín, sem sé sá betri partur veru sinnar, verid aldeilis vanrækt; hann hafi, í því tilliti, verid uppalinn sem skynlaus sképna; aldrei feingid ad heyra neitt um Gud, edur Guds dýrdkun; og eckert um Jesúm Christ, fyrir hvørs nád einúngis hann géti sáluhólpinn ordid. Þar fyrir, sagdi hann, ad þad væri sinn fastur ásétningur, hvørgi annarstadar hér á eptir ad vera, nema þar, sem hann feingi ad heyra um Jesúm Christ, sem væri sinn besti vinur. Þegar meistarinn heyrdi þetta, vildi hann reyna til, ad telja þessa þánka úr Jónathan, af því hann fann eingan smeck í þeim sjálfur; en hann gat alls eckért unnid á hann þar med; svo þegar hann fann, ad hann var óvíkjanligur, lét hann hann vera, og fór sinn veg. Þegar þessi Freisting var afstadin, þá, af því Jónathan fann þad ecki réttvíst, ad lifa hjá frænda sínum, og gjøra ecki neitt þad, med hvørju hann unnid gjæti fyrir braudi sínu, þá baud hann honum, ad hann skyldi þjóna hjá honum sem dreingur í 7 ár, til ad læra handverk hans. Hann þjónadi svo frænda sínum mikid trúliga; en eins trúliga héldt hann lika sínum ásetningi fram í tilliti hins andliga. Hann var einn og sérhvørn sunnudag vid Guds þjónustugjørd í kyrkjunni, til þess ad fá ad heyra meira og meira um Jesúm. Þegar nú vistartími hans var úti hjá frænda sínum, og honum likadi ecki rétt vel handverk sitt, þá sneri hann þaunkum sínum aptur til vatnsins, vid hvørt hann hafdi uppalinn verid, og erfidadi fyrst svo sem þénari, á ýmsum kjænum og

bátum, lifdi mjøg sparsamliga, og dróg svo mikid af-gángs sem hann kunni. Guds forsjón blessadi ogsvo þad fyrirtæki hans, svo hann gat keypt sér fyrst einn litinn bát, og sídan annan stærri til eignar, setti sig sídan nidur í Westmynster, hvar hann hefur áunnid sér mannord eins rádvands manns, og er ordinn í gódu standi uppá efni. Í frá þeim tíma (segir Prestúrinn Calamýs, sem søgu þessa ritad hefur), ad hann settist ad hér í sókn, hefur hann verid ósvikull og viss tilheyrari Guds ords; fyrst á medan minn formadur, presturinn Allsop þjónadi hér, og sídan frá því eg kom híngad til kallsins, eptir hann; en samt hafdi eg alls eingin kynni af honum, edur um hann neytt heyrdt, fyrr enn nú, ad hann—eins og ádur er sagt—til mín kom. Nú spurdi eg hann: hvørt hann vissi, til hvørs ad skýrnin skuldbindi hann? hann svaradi: ad hann efadist ecki um, ad hún mundi skuldbinda sig til annars betri lifnadar, enn hann þángad til æft hefdi, en hann vonadi, ad sá nádugi Gud mundi sér þad fyrirgéfa. Nú spurdi eg hann sídan um nockur høfud atridi Christindómsins, áhrærandi syndafall mannsins, endurlausnina fyrir Christum og um náttúru þeirrar sonnu endurfædingar og helgunar, og fann eg ad þecking hans var mikid vansafull. Hann sagdi mér, ad hann aldrei hefdi neitt uppfræddur verid, og ad hann hvørki kynni ad lesa né skrifa; en hann vonadi, ad eg, af nád, mundi hafa umbúrdarlyndi yfir sér, þar hann haft hefdi svo hyrdulaust uppfóstur. Eg spurdi hann þá: hvad til þess kjæmi, ad hann skyldi ei hafa kostad meira ómaki, til ad ødlast ljósa og greiniliga þeckingu um Christ, þar ed hann þó, fyrir svo mørgum árum,

hefdi fundid til svo störrar gledi út af því, ad fá ad heyra nockud um Jesúm talad? Hann svaradi, og qvadst hafa kostgjæfiliga eptir því stundad, svovel á sunnudøgum, vid opinbera Guds þjónustu, sem og heima i húsi sinu; þar hann opt í leynum hefdi ákallad Gud, svo vel sem hann hefdi gétad; hann hafi og reyndt til at læra ad lesa, svo hann sjálfur gjæti lesid í bibliunni, og lærdt svo greiniliga ad þeckja veginn til himins; en hann sagdi sér hefdi ecki luckast þad. Hann sagdi enn framar, ad hann lagt hefdi mikla mædu á sig, ad vinna fyrir lifs uppeldi sínu, og Gud hefdi svo dásamliga blessad þá atburdi sína, ad hann qvadst skammast sín fyrir, ad hann ecki hefdi þackad honum fyrir þad, eins og sér borid hefdi. En þad sagdist hann géta med sanni sagt, ad sig alvarliga hafi lángad eptir, ad verda drottins eigindómur, og ad sér hafi einginn hlutur jafndýrmætur þókt, sem Guds nád. Þegar eg spurdi hann, því hann hefdi ecki leitad til prestsins, til at láta hann uppfræda sig, þá sagdi hann, ad hann aldrei hefdi tækifæri feingid, til ad verda honum kunnugur, en hafi skammast sín ad tala vid hann i einrúmi, og kvidid fyrir ad presturinn mundi, þegar hann kjæmist ad, hvørsu fávis hann væri, forsmá sig, og í stad þess ad uppfræda sig, gjøra sig til minkunar og módlausan. Eg spurdi hann: hvørt honum aldrei hefdi til hugar komid, ad þad væri skylda sín, ad halda endurminningar máltíd drottins, sem hann øllum sínum eptirfylgjurum, er fyrir hans nád eilíst líf ødlast vildu, bodid hefdi? Hann svaradi: ad víst hefdi hann margsinnum til þess þeinkt, einkum þegar hann hefdi heyrdt af predikunarstólnum um þad

talad; en hann qvadst ecki hafa gétad imindad sér, ad hvílík ein volud og sáfród mannskepna, sem hann væri, gjæti þeirrar æru verdug verid. Þegar eg nú enn framar bar honum þad á brýn, ad hann skyldi aldrei hafa farid til formanns míns, prestsins Allsops, til ad rádfæra sig vid hann, þá svaradi hann: ad yfirbragd hans hefdi alltíd verid svo alvarligt, ad þad hefdi tekid frá sér alla djörfúngu. En þegar eg hefdi nú rétt nýliga bodid fólkinu ad koma til mín, í mitt hús, þá hefdi sér vyrdst, eg líta svo ofur víngjarnliga til sín, og skipa sér ad koma; og þessvegna hefdi hann þann fasta ásetníng fyrir sig tekid, ad koma til mín, og láta sig eckért þar frá hindra. Þegar eg nú spurdi hann: hvad hann vildi heldst ad eg vid sig gjordi? svaradi hann, þad væri þad: ad eg, sem Christs þénari vildi kénna sér, hvörnig hann ætti ad þvi ad fara, ad gjöra sér von um þad, ad komast í himnaríki, og ad von sú væri svo vel grundvöllud, ad hún sig aldeilis ecki á tálar drægi. Þegar eg nú spurdi hann framar ad: hvört hann vildi þá leggja alla ástundun á, ad læra þad, sem til þessa þyrfti, og taka vel eptir uppfrædíngu minni, braust hann fram med tárum og mælti: ad hann væri af hjartu til þess fús; og vegsamadi Gud fyrir þad hann unnti sér þessa. Sem eg nú heyrdi þetta, kom mér í hug madur sá, sem Gudspjallamadurinn seigir frá, ad æpandi hafi sagt til Drottins: „eg trúi, Herra! en hjálpadú vantrú minni!“ (Marc. 9, 24).

Ástand manns þessa hrærdi mig nú mikiliga, og eg sagdi honum, ad eg gjarnan vildi þá mædu upp á mig taka, ad hjálpa honum smátt og smátt, ad komast

til slíkrar þekkíngar, er naudsýnlig væri til þess, ad stadfesta hjarta hans í því góda, og giöra hann rólig-an. Hann sagdi mér þá, ad eg mundi komast ad raun um þad, hvörsu tornæmur lærisveinn hann væri, sem bædi ætti ofurbágt med ad útlista meiníngu sína, og ad skilja þad, sem hönum kénnt væri; en hann qvadst vilja hrópa til Guds, ad veita sér adstod til þess, og bad mig líka inniliga, ad bidja fyrir sér. Eg gaf hönum sídan skrifada stutta útskýríngu yfir Christin-dómsins höfudlærdóma, og sorgadi fyrir því, ad ein-hvör skyldi lesa þetta upp aptur og aptur fyrir hön-um; og sagdi hönum, ad ef hann kiæmi til mín á vissum tímum, þá skyldi eg í hvört sinn, gánga í gégnum viss trúar-atridi med hönum. En hvad þad snerti, ad hann ætti bágt med ad útlista sig, þá mætti hann vid mig tala, eins og hönum möguligt væri, og vera eckért hugsjúkur fyrir ordalægi og talsmáta; og í mínu samtali vid hann skyldi eg á ýmsan hátt útlista fyrir hönum sama efni, svo hann giæti sem best skilid þad. Hann fór sídan ánægdur frá mér, og fullur af þacklæti, og ítrekadi opt, ad hann vonadi, ad Gud mundi mér þetta umbuna.

Eg grenslадist nú eptir, hjá nágrönnum þessa manns, og þeim sem höfdu sama sýsl og hann, um hans þeinki- og lifnadarmáta, og luku allir upp sama munni, ad hann væri rádvandur og hreinskilinn mad-ur, og hjálpar fús vid alla, sem hönum möguligt væri, og ad hann giördi eingu qvikindi minsta mein. Madur þessi heimsókti mig sídan opt eptir þetta, og eg átti opt tal vid hann, og leitadist vid ad innræta hjá hön-um réttum ímindunum í tilliti þess opinberada sann-

leika. Eg sagdi honum, hvad madurinn hefdi sæll verid, medan hann lifdi í sakleysins standi, og hvørsu hann væri nú vesæll ordinn, sídan hann í syndina féll, og er ordinn undir hana sjálfur; eg útmáladi fyrir honum þad stóra verk Endurlausnarinnar; nádar sáttmála Guds vid mennina fyrir Christum, og dæiligleika heilags lifnadarlags; eg útlistadi fyrir honum um skylduverkin, og um þær blessanir, sem sönnum Christindómi fylgja; eg sýndi honum ofaná þær røksemdir, sem eru fyrir þeim yfirnáttúrliga opinberudu trúarbrøgdum, og fyrir sigrihrósandi krapti christiligrar vonar. Eptir þetta leitadist eg vid, ad uppfræda hann um veru og verkun þeirra tveggja sakramenta, og sídan ad hjálpa honum til ad endurnýa sinn skírnar sáttmála, og til ad undirbúa sig til þeirrar heil. kvøldmáltídar. Þetta var þvílíkt verk, sem kostadi bædi mædu og tíma. Jónathan lagdi líka miklu mædu á sig, og bar sig med ákefd ad nema allt hvad eg sagdi honum, en þó honum þad nærsta ørdugt veitti. Þó sem ádur nádi hann um sídir þvílíkri þekkingu, og sýndi svo mørg merki til hreinskilinnar umvendunar, ad eg mátti ecki synja honum um adgáng til drottins kvøldmáltídur. En ad læra ad lesa, á sínum aldri, var honum aldeilis ómøguligt. Héreptir vard hann mikid ánægdur, og vel til frids, og vidurkéndi opt, ad hann vissi ecki, hvørnig hann ætti, sem hann vildi, ad láta í ljósi þacklæti sitt vid Gud, fyrir þá stóru nad, er hann sér audsýnda hefdi, og jafnvel vid mig, fyrir þá mædu, sem eg hefdi fyrir sér haft. Hjarta hans þeinkti ecki um annad, enn hvørsu hann gjæti eitthvad gott gjørdt. Einusinni, þegar hann kom til

mín, færdi hann mér peníngabindi, og sagdi mér, ad hann findi þad á sér, ad hann ætti hér í heimi ecki lángan tíma eptir ólifadan til ad gjöra gott, og bad mig því, ad taka úr þessu bindi, svo mikid sem eg vildi til ad meddeila saunþurftugum, er eg þeckti, svo Gud mætti þar af dýrd hafa; og þarhjá gaf hann mér til kynna, ad eg gjæti sér einga meiri gledi gjördt, enn med því ad vísa sér á eitthvört þad tækifæri, sem hann gjæti notad til ad gjöra Gudi eitthvad til dýrdar, hvörjum hann svo óendanliga skuldbundinn væri. Tal hans, í öllum ockar samrædum var fullt af mestu alvörugéfni, og öll hegdan hans eptirbreytnis verd. Einginn sýndi eins stóra kostgjæfni og trúskap, í ad vitja opinberrar Gudsþjónustugjördar, og einginn var athugasamari tilheyrari, enn hann; og naumast var einn sunnudagur svo lidinn, ad hann ecki sárþreydi eptir þeim næsta. Þegar eg einn sunnudag eptir þetta saknadi hans úr kyrkjunni grunadi mig strags, ad hann mundi ecki heilbrigdur vera, og ásetti mér því næsta dags ad vita hvörnig hönum lidi; en ádur enn til þess kom, var snemma næsta morguns sendur madur til mín, sem sagdi mér ad Jónathan væri mjög sjúkur; og þad svoleidis, ad ef eg vildi hitta hann á lífi, þá hlyti eg á sama degi ad koma til hans. Svo géck eg strags um morguninn þángad, og fann hann mikid þúngliga haldinn. Í húsinu, sem hann lá, var ýmisligt fólk samankomid, og þad hafdi einga stillingu á sér, ad tala og skvaldra allrahanda. Eg géck þá ad rúmstock hans og sagdi: kjæri Jónathan! hvörnig lidur þér nú? „æ, svaradi hann, Jónathan fer nú hédan!“ Hvört ferdú þá? sagdi eg: „til míns Guds,

vona eg" ansadi hann. Eg vona þad líka svo; sagdi eg. En, eg bætti þeim ordum vid: láttú mig þá sjá, hvør grundvøllur þinnar vonar er! Þér vitid, sagdi hann, ad eg kann hvørki ad lesa né skrifa; en eg vildi eg kynni þad. En eg hefi af ýmsum predikurum, um hvørra trúverdugleika eg ecki efast, og einkum af ydur sjálfum, heyrdt: ad ef eg af øllu hjarta ofurgjæfi mig Herranum Jesú, þá mundi Gud verda mér — svo vesæll og vondur syndari, sem eg er — nádugur, og álíta mig fyrir sitt barn, og ad þetta sé høfud inntak alls evangelii. Já, kjæri herra! sagdi hann framar, hafi eg nockurn hlut, á allri minni æfi, gjørdt af øllu hjarta, þá gjørdi eg þad, þegar eg, vid Jesú kvøldmáltíd, ofurgaf mig sjálfan, og allt hvad í mér er, Jesú Christo á hendur, og þessvegna vona eg, ad Gud verdi mér nádugur, fyrirgéfi mér mínar syndir, og taki mig til sín í himnaríki, þegar hann kallar mig hédan. Eg reyndi svo til framar ad styrkja hann, hugga og hughreysta, og fól hann svo, midt í bænagjørd, Gudi á hendur; og hann deydi sídan á þessa sama dags kvøldi, ecki alleinasta med føgnudi, heldur og sigurhrósi.

Lofadur veri Gud!

Þannig hljódar nú æfisøgu inntak Jónathans Braun, og seigist presturinn Calamýs hafa sagt frá henni ýmsum persónum vid ýmislig tilfelli, sem ei hafi allítid ad henni dádst, og óskad af sér, ad hann léti hana skrifada eptir sig liggja, svo hún tapadist ecki, heldur gjæti ødrum til uppbyggíngar kunnug ordid. Þessa bón seigist prestarinn hafa lofad ad uppfylla, og því sé hún af sér ritud eptirlátin, og qvedst hann kunna

hátídliga ad vitna fyrir sérhvorjum sem þess krefst, ad hann hafi alls eckért í henni ýkr né aukid, heldur sagt sannleikann trúliga. Þar fyrir er þá þess ad vona, ad þetta góda augnamid prestsins Calamýs og annara náist muni hjá sumum frásøgunnar heyrendum og lesendum.

Þad er annars þeim, sem þessa frásøgu heyra, einna mest athugaverdt; fyrst þad, ad þó ad Jónathan uppalinn væri í stærsta fáfrædi allt til síns 25ta aldurs árs, svo hann aldrei féck, hvorki heimugliga né opinberliga neitt, tækifæri til ad dýrdka Gud, þá hrærdi þó Gud endur og sinnum samvitsku hans, svo hann þeckti mismun á milli þess géda og vonda, hatadi lýgi, taladi sannleika, og var trúr og kostgæfinu í øllum sínum athøfnum; en eingu ad sídur sann hann þó til þess, ad sig brast eitthvad — þó hann ei vissi hvad — til ad giøra samvitsku sína sannrøliga; þetta var nú efalaust verk Guds anda í sálu hanns, og sem fyrsta morgun-skýma til dags nádarinnar. Þar af skyldu þeir þá, sem þetta dæmi heyra, læra:

Í annan máta, ad forsmá ecki né nidurkefja hjá sér hræríngar samvitsku sinnar, heldur kosta kapps um ad næra þær. Þegar þeir finna til ástrídu þess vonda í sálu sinni, eiga þeir alvarliga ad strída þar á móti, þó þeim finnist þad stríd ørdugt. Hvor ed svæfir dóm samvitsku sinnar, stendur á móti Gudi, og gétur aldrei umvendst, né Guds barn ordid, medan hann því fram fer, heldur hlýtur hann, med sannri ydrun og trú, ad snúa sér til Guds nádar í Christo; þá fyrst gétur hann feingid sigur yfir syndinni og sanna rósemd fyrir

sálu sína. Í þridja máta er það eptirtektaverdt: ad Jónathan ásetti sér ad yfirgéfa það samfélag, hvar hann heyrdi aldrei, né sá, neitt gott fyrir sér, jafnvel þó honum bidust bestu kostir, í öllu því sem líkamann snerti. Þetta var órækt hreinskilnis og sjálfsafneitunar merki hjá honum, hvörs brestur steipir mörgum í stærstu ógjæfu, úr hvörri þeir traudliga ratad fá.

Sá sem lætur nockurn líkamligann skada edur ábata, skömm edur heidur, ánægju edur ángist, halda sér frá ad rýma því úr vegi, sem hann finnur, ad gétur sér ad sálartjóni ordid, hann er vart sannchristinn og gleymir þessum Jesú ordum: „hvad stodar manninn það, þó hann vinni allann heiminn, ef hann lídur tjón á sálu sinni?"

Í fjórda lagi er yfrid umhugsunarverd verkan sú, sem su fyrsta prédikan er Jónathan heyrdi um það: ad Jesús Christur væri í heiminn kominn, synduga menn sáluhólpna ad gjöra, hafdi í hjarta þessu vesæla manns; sú nefniliga: ad hann fast ásetti sér, ad vilja eptir það hvörgi vera í heiminum annarstadar, enn þar sem hann feingi ad heyra um Jesúm Christum talad og prédikad. O þetta voru þaug einu og sönnu úrrædi og sáluhjálpliga fyrirtekt! Sá sem ecki verdur svo sinnadur, hvört hann er ædra edur lægra stands, ríkur edur fátækur, gétur alls ecki sáluhólpinn ordid; því þar er í eingum ödrum hjálprædid, og eckert annad nafn undir himninum mönnúnum géfid, í hvörja þeir géti sálu-hólpnir ordid, utan nafnid Jesú Christs; en hvör sem á hann trúir, sá er réttlátur fyrir Gudi (G. bók. 5, 12. 16, 31).

Í fimmta lagi eru athugaverd merki þaug, sem

syndu það berliga, að umvendan Jónathans var af allri alvöru. Fyrst það, hvörsu kostgjæfiliga hann sókti og rækti þá útvortis Guðs-þjónustugjörð, til að verða sem best uppfræddur um veg sáluhjálparinnar; svo hönum þóktu stundir þær yndisligastar, sem hann Guðs orðs tilheyrari verið gat, þó ekki gjæti hann lesið það sjálfur. Því næst rækti hann bænina til Guðs af allri alúð, og ákallaði hann um að veita sér aðstoð til þess góða. Yfirvegan Guðs orðs og bænin eru tvær aðal máttar-styttur og viðurhalds-meðöl sannarligs Christindóms í sálu manns, og eing-inn verður án þeirra brúkunar réttskickaður Christinn. Það þriðja, sem syndi hreinskilni hans umvendunar var það, að hann lángaði til að efla Guðs dýrð meðal annara, og vildi gjarnan með sínum litlu eigum kosta til þess, samt styrkja hendur hinna sann-fátæku. Eptir þessu dæmi ætti hvör einn að ran-saka sjálfann sig, og bera sig saman við það; því af ávörtunum einum er sanna trú að þeckja, en ecki öðru; en þvílíkir ávertir verða að vera bæði innvortis og útvortis; innvortis, sönn daglig yðr-an, heit bænrækni, og kjærleiki til Guðs í Jesú Christo og til náúngans; en útvortis allslags guðligt lifn-aðarlag til orða og verka. Þeir sem innvortis eru, géta aldrei tilverið, nema þeir útvortis fylgi með, því trúin er án verkanna dauð; en þeir sem eru útvortis, géta aldrei sannir verið, nema þeir spretti af þeim sönnu innvortis ávörtum; því annars eru þeir ecki nema hræsni og skinnhelgi, þar fúið tré gétur ecki borið góðann ávört.

Í síðsta lagi var það merkiligt, hvílíka ánægju,

sálarfrid og fögnud ad kvöldmáltídar sakramentisins brúkun hjá umgétnum manni verkadi, er sást af því, ad hann þóktist ei vita, á hvorn hátt hann auglýst gjæti þacklátsemi sína vid Gud, fyrir þá nád, sem hann honum í sakramentinu veitt hefdi, og hjarta hans vard því enn framar þaraf upptendrad til kjærleikans verka.

Loksins var mótteki hans móti daudanum, og hans trú á daudastundinni yfirmáta merkilig. „Hafi eg nockurn tíma gjördt nockurn hlut af alvöru, sagdi hann, þá var þad, þegar eg ofurseldi mig Herranum Jesú!" og þessvegna gékk hann med fögnudi og hughreysti inní eilífdina.

O ad allir, af hvorju helst standi, kyni, kjörum og aldri, sem eru, vildu eptir þessu taka, og búa sig eins undir dauda og dóm, sem þessi Jónathan Braun, og adrir honum líkir, svo þeirra afgángur ordid géti, sem hans og hinna, hvorjir ad lifa hér og deya í sannri lifandi, bidjandi og strídandi trú á Jesúm Christum!

Gud gési ad óst sú verdi ad áhríns ordum!

☞ „Evangelisk Smárit eru ad fá í Reikjavík, í Flatey á Breidafyrdi, á Eyafyrdi og á Reidarfyrdi, ókeypis þeim, sem sjálsir þar vid þeim taka; en þeir sem betalad géta, gjöri svo vel: ad géfa sér þecktum verdugum fátækum, svo sem 2 edur 3 skildínga vyrdi, fyrir hvort 1 ark, sem þeir þyggja."

Kaupmannahöfn 1847. Prentad hjá S. L. Møller.